**Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!**

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að viku-blaði verkafólks?

**Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Leninista**

17. tölublað | Þriðjudagur 1. maí 1979 | 8. árgangur | Verð kr. 150

## BSRB félagar:

# Fellum samkomulagið

Nú fer að líða að allsherjaratkvæðagreiðslunni um samning forystu BSRB og ríkisstjórnarinnar.

Gerð þessa samkomulags er aðeins einn liður í kjaraskerðingarherferð ríkisstjórnarinnar. Þessi herferð hefur staðið látlaust frá því ríkisstjórnin var mynduð og hún hefur við þessa iðju sína notið dyggilegs stuðnings flokksbræðra ráðherranna í forystu stærstu stéttarfélaganna.

Skerðingin á vísitölunni 1. des. var af þessu tagi. Þar áður höfðu vísitölubætur verið skertar. Þessar skerðingar voru gerðar í "samráði" við launþega eins og það heitir.

Síðan hefur ríkisstjórnin gengið æ lengra.

Þegar viðræður um niðurfellingu 3% kauphækkunarinnar hófust var einnig rætt um að framlengja kjarasamninga opinberra starfsmanna til 1. des. nk. Sú krafa ríkisstjórnarinnar hefur þó orðið að víkja í bili að minnsta kosti.

Ríkisstjórnin hefur marglýst yfir vilja til "samráðs" við verkalýðshreyfinguna. Þetta samráð er þannig að ráðherrarnir taka ákvörðun og síðan samþykkja flokksbræður þeirra orðinn hlut.

Samráð af þessu tagi er ekki gert fyrir vinnandi fólk. Það er gert til að ríkisstjórnin hafi starfsfrið til að stjórna þjóðfélagi auðherranna á þann hátt að skerða kaup launþega og vernda þannig og auka gróða atvinnurekenda.

Gegn þessu verða launþegar að snúast af fullri einurð. Ríkisstjórn sem hefur það markmið eitt að skerða kjörin á ekki skil'ð að lifa lengur.

Tækifærið til að veita henni og forystumönnum stéttarfélaganna verðuga ráðningu hafa opinberir starfsmenn í allsherjaratkvæðagreiðslunni 3. og 4. maí.

Fellum samkomulagið.



# SAMEINING 1. MAÍ
## Gegn kjaraskerðingu

Enn á ný heldur verkalýðsstéttin alþjóðlegan baráttudag sinn hátíðlegan. Í ár eru þessi hátíðarhöld hér á landi haldin meðan svokölluð vinstristjórn situr að völdum.. Ekki síst vegna þess er ástæða til að verkalýðssinnar haldi árvekni sinni. "Alþýðu" stjórnin hefur sýnt af sér svo fádæma fjandskap í garð alþýðufólks að verkafólk hlýtur að mótmæla því kröftuglega á 1. maí.

En verkalýðsstéttin er sundruð og þeir sem standa fyrir sundrunginni sitja einmitt í valdastólum ríkisins og verkalýðshreyfingarinnar. Stéttin þarfnast sameiningar því í henni liggur styrkurinn. Kommúnistar vilja sameina hinn vinnandi fjölda í volduga samfylkingu gegn kjaraskerðingu, arðráni og kúgun. Liður í þessari viðleitni okkar er að endurreisa verkalýðsfélögin sem virk og lýðræðisleg baráttutæki fyrir hagsmunum fjöldans. Það verður ekki gert með því að leggja traust sitt á "vinsamlegt" ríkisvald eða uppkeypta verkalýðsforingja eins og dæmin sanna.

Það er þörf víðtækrar baráttueiningar gegn íslensku auðstéttinni og ríkisvaldi hennar og gegn þeim verkalýðsforingjum sem láta ekkert tækifæri ónotað til að telja úr fólki kjarkinn og sundra baráttu stéttarinnar.

Nýjasta dæmið um þetta er forysta BSRB sem látið hefur af hendi árangur síðustu kjarasamninga og reynir nú að sundra baráttu félagsmanna til að koma í veg fyrir þessa óhæfu.

Þeir sem vinna að sundrungu verkalýðsstéttarinnar eru þeir sem selja vilja hagsmuni alþýðufólks fyrir ráðherrastóla "vinsti" stjórnarinnar. Það eru sundrungaröfl sem nú verma ráðherrastólana og sitja í æðstu stöðum verkalýðsfélaganna. Þeir vilja draga úr allri baráttu, beita ólýðræðislegum vinnubrögðum til að vernda sérhagsmuni sína og starfa með atvinnurekendum. Tæpast getur það kallast klofningsstarf að hafna slíkri forystu og stéttasamvinnu yfirleitt. Það er mikið frekar klofningsstarf að standa gegn baráttu fjöldans og gera verkalýðsfélögin að lítilþægum þjónum þingliðs "vinstri" stjórnarinnar.

Kommúnistar óska eftir sameiningu en þeir eru ekki reiðubúnir til að sameinast um hagsmuni auðvalds eða um uppgjöf í baráttunni. Þeir eru ekki tilbúnir að styðja það þjóðfélagsskipulag sem ekki getur séð þegnum sínum fyrir mannsæmandi lífskjörum fyrir hóflegan vinnudag. Þeir vilja skapa nýtt þjóðfélag þar sem vinnan verður sett í hásæti í stað auðsins og þar sem frelsi einstaklingsins

framhald á síðu 2

# 1. MAÍ

*sjá Blaðauka*

## Hvað er að gerast í Afganistan

• HEIMSHORNA Á MILLI

## Polisario vinnur á

HEIMSHORNA Á MILLI

## Handtökur á Ítalíu

HEIMSHORNA Á MILLI

## Hátekjumenn

SJÁ BAKSÍÐU

**DAGSKRÁ:**

**Kl. 14 Kröfuganga**

Safnast saman á Hlemmi gengið niður Laugaveg

**Kl. 15 Útifundur á „Hallærisplani"**

1. ræða Pétur Pétursson þulur
2. ræða Sigurður Jón Ólafsson iðnverkamaður
3. Upplestur

**Rútur flytja útifundarfólk á innifund í Sigtúni.**

**Kl. 16 Innifundur í Sigtúni**

Skemmtiatriði:

1. Sönghópur úr Kennaraháskólanum
2. Kjarabót syngur
3. Hjördis Bergs syngur um Palestinu
4. Kristinn Einarsson flytur frumort ljóð
5. Fjöldasöngur

Ræða:

Edda Atladóttir iðnverkakona

Ávarp:

Elías Davíðsson kerfisfræðingur

**Barnadagskrá í efri sal:**

Söngur, dans og kvikmyndir.

Leikþættir leiknir af börnum

Leiktæki, spil og bækur á staðnum.

Malað og skapað

**Kl. 20-24 kvöldfundur í Hreyfilshúsinu**

1. Söngleikurinn Dægurlagabrot samið og flutt af nemendum í Kennaraháskólanum.
2. Bubbi Mortens syngur
3. Pétur Guðlaugsson syngur
4. Ávörp
5. Dans undir hljómfalli frá Harmoniku, hljómplötum og Kjarabót



LEIÐARI

# Sameining marx-lenínista í einn flokk

Það hefur lengi verið einn helsti dragbítur á starf marx-lenínista að þeir hafa verið klofnir í tvenn samtök, Kommúnistaflokk Íslands og Einingarsamtök kommúnista.

Klofningur þessi er ekki ný saga og á sér margar orsakir, bæði heimabúnar og aðfluttar, þótt það verði ekki rakið nánar hér.

Það er öllum orðið löngu ljóst að það er ófært ástand að marx-lenínistar eyði orku í að berjast innbyrðis. Klofningurinn hefur valdið ómældum skaða og orðið til þess að draga verulega úr árangri marx-lenínískrar hreyfingar. Jafnframt hefur klofningurinn orðið vatn á myllu auðvaldsins og stéttasamvinnunnar.

Undanfarnar vikur hafa orðið á þessu gleðilegar breytingar.

Nú standa yfir viðræður milli samtakanna um það sem borið hefur á milli. Viðræðurnar hafa leitt það í ljós að skoðanaágreiningurinn milli Kommúnistaflokksins og Einingarsamtakanna er hverfandi lítill og réttlætir á engan hátt klofninginn. Þennan skoðanaágreining má leysa á félagalegan hátt innan eins flokks.

Auk þessara viðræðna hefur tekist víðtækt samstarf félaga úr KFÍ og Eik í ýmsum málum. Nægir þar að nefna árangursríkt samstarf fyrir 1. maí.

Samstarf er nauðsynlegt til að eyða þeirri tortryggni sem skapast hefur milli þessara aðila undanfarin ár.

Það er afar áríðandi að þessi tilraun til sameiningar fái farsælli endi en fyrri tilraunir.

Ástandið á Íslandi kallar á sameiningu marx-lenínista. Hin gífurlega sókn stéttasamvinnuaflanna hlýtur að hvetja okkur til að hraða þessu starfi. Forysta flestra stærstu verkalýðsfélaganna er flækt í stéttasamvinnunet kratanna í Alþýðubandalaginu og Alþýðuflokknum. Þeir gera allt til þess að svæfa og halda aftur af baráttu verkalýðsins. Forsenda árangurs í baráttunni gegn stéttasamvinnunni er sameining marx-lenínista.

Ástandið í heiminum kallar á sameiningu. Sovésku heimsvaldasinnarnir hafa fyrir löngu varpað af sér grímunni. Risaveldin leggja æ meiri áherslu á stríðsundirbúning. Þessi undirbúningur blasir við okkur daglega. Vopnaframleiðslan er meiri en nokkru sinni og risaveldin keppa um að koma sér upp "vinveittum ríkjum", það er að segja ríkjum sem risaveldin nota sem leppa til enn frekari heimsyfirráða.

Það væri ófyrirgefanlegur glæpur gagnvart íslenskri verkalýðsstétt ef marx-lenínistar kjósa að halda áfram að berjast innbyrðis frekar en að sameinast gegn stéttarfjendunum, auðvaldi og þjónum þeirra í verkalýðsforystunni.

Sameining marx-lenínista þýðir að baráttan gegn stéttasamvinnustefnu og heimsvaldastefnu styrkist til enn frekari sigra.

Sameining marx-lenínista kallar líka til þátttöku í marx-lenínísku starfi þá fjöldamörgu sem nú standa utan við og vilja ekki gera upp á milli KFÍ og Eik ml.

Kommúnistaflokkur Íslands lýsir yfir fullum vilja til sameiningar og hvetur til þess að nauðsynlegu undirbúningsstarfi sé flýtt sem frekast er unnt.

# Leiðrétting

Í næstsíðasta tölublaði Stb. urðu heimildamanni blaðsins um greinina um Háskólann á þau mistök að skola til í kollinum á sér númerum tveggja greina sem kenndar eru við Stærðfræðiskor VR-deildar skólans. Greinin 11.65 er ekki Tölfræði I. fyrir líffræðinema, heldur Tölfræði II. fyrir líffræðinema sem ekki er skyldu grein. Biðjum við Stærðfræðiskor velvirðingar á þessum mistökum. Hins vegar viljum við ítreka hitt, að það er ekki rétt leið að mæta niðurskurði á rekstrarfé til Háskólans með því að skera niður kennslu, hvorki gagnvart nemendum né skólanum sjálfum sem vísindastofnun. Hvar er nú "akademíska frelsið"?

framhald af forsíðu

# SAMEINING 1. MAÍ

er forsenda fyrir frelsi heildarinnar.

Þeir sem standa að Sameiningu 1. maí í ár eru þess sinnis að sameina verði verkalýðsstéttina gegn auðvaldi og handbendum þess, jafnt í þjóðfélagslegri sem alþjóðlegri baráttu.

Kommúnistaflokkur Íslands ml styður því einhuga aðgerðir Sameiningar 1. maí. Mikilvægar kröfur eru settar fram eins og Gegn allri kjaraskerðingu og Lífvænleg laun fyrir 8 stunda vinnudag. Þessar kröfur ásamt fleirum sem ganga í sömu átt eru sameiningartákn íslenskrar verkalýðsstéttar, verkalýðsstéttar sem ætlar að endurreisa verkalýðsfélögin sem virk og lýðræðisleg baráttutæki.

Á 1. maí mun einnig verða haldið hátt á lofti alþjóðahyggju verkalýðsins. Alþjóðahyggja verkalýðsins þýðir stuðningur við frelsis- og sjálfstæðishreyfingar víða um heim og barátta gegn heimsvaldastefnu í hvaða mynd sem hún birtist.

Baráttan gegn útþenslustefnu rússa er óumræðilega mikilvæg í ljósi ört vaxandi stríðshættu. Bæði risaveldin, Bandaríkin og Sovétríkin, ógna heimsfriðinum og barátta gegn heimsvaldastefnu þeirra verður því óhjákvæmilega mikilvægt mál á 1. maí um allan heim.

Kommúnistaflokkur Íslands ml skorar á verkafólk og vinnandi alþýðu að fylkja sér um aðgerðir Samfylkingar 1. maí.

Fram til baráttu gegn stéttasamvinnu, fyrir endurreisn verkalýðsfélaganna.

Gegn allri kjaraskerðingu, fyrir frjálsum samningsrétti og verndun lýðréttinda.

Fram til baráttu gegn heimsvaldastefnu USA og USSR, gegn aðild Íslands að Nató og veru bandarísks herliðs á Miðnesheiði.

Fram til baráttu fyrir fullveldi og sjálfstæði. Styðjum frelsisbaráttu alþýðufólks um allan heim.







# Farmannadeilan: Verkbann og verkfallsbann í uppsiglingu

Framhald af baksíðu.

lýðréttindi launafólks. Ríkisvaldið hefur áður sett bann á að sjómenn færu í verkfall. Það gerðist með setningu bráðabirgðalaga 1976. Fyrir því stóð Matthías Bjarnason þáverandi sjávarútvegsráðherra. Þeim bráðabirgðalögum var svarað með harvítugri baráttu sjómanna og m.a. var íhaldsmanninum Pétri Sigurðssyni steypt úr formannssæti Sjómannasambands Íslands.

Skerðingu á verkfallsrétti sjómannasamtakanna nú, ef af henni verður, ber að svara á sama hátt með öflugri og sameinaðri baráttu.

VSÍ og ríkisstjórnin eru bandamenn í þessari deilu og fjandsamleg farmönnum, sem og launafólki yfirleitt.



## ÚR BARÁTTUNNI

### Að auka þjóðartekjur.

"Ég held að innflutningsverslunin gæti aukið þjóðartekjur Íslendinga um 10-15% á fjórum árum og bætt lífskjör allra landsmanna sem því nemur." Þetta sagði einn oddviti heildsalanna, Árni Gestsson, nýlega.

Tekjuaukningin felst meðal annars í sparnaði í rekstri verslunar og að þjónusta hennar við aðrar atvinnugreinar muni batna. Við tökum eftir því að atvinnurekendur eiga að njóta þessarar tekjuaukningar.

Þessu markmiði á að ná, að sögn Árna, með því að afnema verðlagsákvæði og hömlur á vörukaupalánum verslunar og á gjaldeyrisverslun.

Eins og sjá má eru það neytendur sem ætlað er að borgi brúsann í hækkuðu vöruverði sem óhjákvæmilega hlýst af afnámi verðlagsákvæða.

Það er sjálfsagt alveg rétt hjá Árna að "þjóðartekjur" aukist við þetta um 10-15%. En það verða ekki launþegar sem njóta þessar aukningar. Teknaaukningin felst í því að vöruverð hækkar og þar með eykst gróði heildsalanna en launþegar borga

### Fylkingin og samningar BSRB.

Ragnar Stefánsson formaður Fylkingarinnar hefur staðfest í samtali við STB að Fylkingin styðji samkomulag BSRB við ríkisstjórnina um niðurfellingu kauphækkunarinnar.

Fylkingunni er hins vegar eins og kunnugt er einni lagið að hafa tvær ólíkar skoðanir á einu og sama málinu. Rauð verkalýðseining, sem er 1. maí nafn Fylkingarinnar, hefur að sögn Ragnars ekki tekið afstöðu í þessu máli en báðar skoðanir megi koma fram í göngunni. Í skjóli þessa ætla trotskíistarnir að lokka til sín andstæðinga samkomulagsins.

En heldur er þetta ömurlegt hlutverk sem Fylkingin hefur fengið, þ.e. að styðja Alþýðubandalagið og kjararánsstefnu ríkisstjórnarinnar með því að kljúfa andstöðuhreyfinguna.

### Ritstjórn Ásgarðs.

Andóf '79 hefur ásakað ritnefnd Ásgarðs fyrir að birta ekki ályktanir sem gerðar hafa verið gegn samkomulaginu. Haraldur Steinþórsson afsakar það með því að aldrei hafi verið farið fram á birtingu.

Auk Haraldar sem er ritstjóri blaðsins eru fjórir aðrir í ritnefnd og einn ritstjórnarfulltrúi í hálfu starfi.

Menn velta því nú ákaft fyrir sér hvernig allur þessi mannskapur ritstýri blaðinu.

### Flugvél fyrir tapið.

Fyrir örfáum dögum voru Flugleiðir að verða gjaldþrota. Nú hafa þau boð verið látin út ganga að félagið hyggi á kaup nýrrar þotu fyrir um það bil 6 milljarða króna.

Þetta er dæmi um meiriháttar fjármálasnilli.

Stéttabaráttan 

**BLAÐAUKI**

# 1. MAÍ



Þann 1. maí 1923 fylkti verkalýðurinn sér í fyrsta sinn út á götur Reykjavíkur í tilefni af baráttudegi verkalýðsins.

Um 500 manns tóku þátt í henni en mun fleiri eða 3-4000 komu á útifundinn að göngu lokinni.

Mogginn barðist þá hart gegn aðgerðunum eins og hans var von og vísa og atvinnurekendur hótuðu þátttakendum vinnumissi

## 1.maí 1923

Verkalýðsfélögin í Reykjavík efndu í fyrsta sinn til aðgerða 1. maí árið 1923. Þá hafði 1. maí verið helgaður verkalýðsbaráttu erlendis í 33 ár eða frá árinu 1890.

Á morgni 1. maí fóru sendiboðar út í bæ til að hvetja verkafólk til þátttöku í göngunni. Atvinnuleysi var þá mikið í Reykjavík og atvinnurekendur hótuðu verkafólki atvinnuleysi ef það tæki þátt í aðgerðunum.

Atvinnurekendur með aðstoð Moggans börðust harðlega gegn aðgerðunum. Ein aðalröksemd Moggans var að 1. maí aðgerðir pössuðu erlendis í milljónaborgum en ekki á Íslandi, sakir fámennisins.

Ein aðalkrafa þessa dags var um 8 stunda vinnudag. Það segir sína sögu að núna, 56 árum síðar, er ein meginkrafan lífvænleg laun fyrir 8 stunda vinnudag.

Alþýðublaðið, sem þá studdi verkalýðinn, segir að í göngunni hafi verið um 500 manns en Mogginn, sem greinilega hefur snemma lært að falsa tölur, segir þátttakendur hafa verið 40 - 50. Á útifundinum að lokinni göngunni voru milli 3 og 4 þúsund manns.

Morgunblaðið sýndi göngunni og aðstandendum hennar fullan fjandskap. Það er rétt að minnast þess núna þegar Mogginn reynir að gera 1. maí að baráttulausum hátíðisdegi.

Eftirfarandi grein birtist í Alþýðublaðinu 25. apríl 1923 og lýsir hún betur en nokkur skrif þeirri hrörnun og úrvötnun sem Alþýðuflokkurinn hefur mátt þola síðan þá. Þeir menn sem stjórna honum í dag, eru ekki einu sinni sósíaldemókratar, heldur tískudindlar sem reyna að gera sér mat úr óánægju vinnandi fólks með lífskjör þess og aðbúnað.

"1. maí ár hvert ganga verkamenn erlendis kröfugöngu með fána og áletruð spjöld, 1. maí er ekki eingöngu frídagur verkamanna, hann er liðskönnunardagur þeirra. Þá bera þeir fram kröfur sínar.

2. Alþjóðasamband jafnaðarmannaflokkanna (2. Internationale, frb. internasjónale) ákvað að beita sér fyrir því, að verkamenn legðu niður vinnu 1. maí til þess að láta auðvaldið og fylgifiska þess verða vara við hreyfinguna í öllum löndum og krefjast 8 stunda vinnudags.

Árið 1890 var 1. maí haldinn heilagur í fyrsta sinn. Þá skrifaði Friedrich Engels, sem ásamt Karli Marx mótaði jafnaðarstefnuna og kom henni í vísindalegan búning:

"Í dag er ég rita þessar línur, kannar alþýðan í Evrópu og Ameríku liðsafla sinn í fyrsta sinn, en hún stendur nú sem einn her undir vopnum með sama fánann í fararbroddi og með sama takmarki, sem ákveðið var á verkamannaþinginu í Genf 1866 og 1889 í París, sem sé að krefjast lögboðins 8 stunda meðal vinnudags. Það, sem fram fer í dag, mun opna augu kapitalistanna og stóreigendanna í öllum löndum fyrir því, að í dag stendur alþýðan í öllum löndum sameinuð sem einn maður væri. Ég vildi nú aðeins óska þess, að nú stæði Marx hér við hlið mér og sæi með eigin augum viðburðina".

1. maí hefur verið haldinn hátíðlegur síðan alls staðar þar sem alþýðan hefur viljað rétta hlut sinn, þó með misjöfnum hætti væri. Í sumum löndum t.d. Englandi og skandinavisku löndunum, hefur allt farið fram með friði og spekt, en t.d. í Frakklandi hefur auðvaldið sjaldan getað horft á kröfugöngur verkamanna án þess að áreita þá á einhvern hátt og hafa jafnvel orðið blóðugar skærur. Í sumum fylkjum Bandaríkjanna er 1. maí jafnvel lögboðinn frídagur.

Eins og eðlilegt er, eru hátíðarhöldin mest í þeim löndum, sem jafnaðarstefnan er lengst á veg komin, t.d. í Rússlandi og öðrum Sovétlýðveldum og einkum í nokkrum hlutum Þýskalands (t.d. í Saxlandi, Würtemberg, Prússlandi og Rínarlöndum).

Þar blasir alls staðar við augum hinn rauði fáni alþýðunnar og milljónir manna ganga um göturnar og syngja "Internationale"!

Á þriðjudaginn næsta er kemur hefir fulltrúaráð verkalýðsfélaganna ákveðið að hafa kröfugöngu og fund. Allur verkalýður þessa bæjar verður að mæta og ganga með. Enginn má sitja heima.

1. maí er ekki einvörðungu frídagur eins og t.d. 17. júní og 2. ágúst. Hann er helgur dagur, sannhelgur dagur. Þúsundir alþýðumanna hafa látið lífið þann dag síðustu þrjá áratugi. Þessvegna er dagurinn einnig sorgardagur. Þá er minnst þeirra manna, sem létu lífið fyrir hina kúguðu alþýðustétt. Vér verðum að neyða kapitalistana til að bera höfuð sín eins og prússakonungur forðum fyrir minningu þeirra.

1. maí 1923 ætlum vér að krefjast betra skipulags vinnunnar, 8 stunda meðal vinnudags og fullkominna mannréttinda fyrir alla verkamenn. Þetta eru fyrstu og næstu kröfurnar.

Félagar: vér mætum öll, konur og karlar, 1. maí."



## Samstaða námsmanna og verkafólks

Nú á 1. maí sýnir verkalýðurinn samstöðu sína með því að fara í kröfugöngu. Á þessum degi er nauðsyn að samstaðan sé sem víðtækust. Þannig eiga ýmsir hópar sem ekki tilheyra beinlínis verkalýðnum samleið með honum, eins og t.d. námsmenn.

Þó er þarna nokkurt sambandsleysi á milli og ýtir borgarastéttin óspart undir það.

Oft má heyra þær raddir, meðal verkamanna að námsmenn séu sníkjudýr og lifi góðu lífi á kostnað alþýðunnar. Þessi skoðun nýtur mikils hljómgrunns á síðum íhaldsblaðanna og er ákaft reynt að koma þessu helst yfir á vinstrisinnaða námsmenn.

Einnig fyrirfinnst sú skoðun að verkamenn séu heimskir aular, óhæfir til menntunar og til þess eins nýtir að vinna verstu verkin. Báðar þessar skoðanir eru jafnrangar. Að vísu er það rétt að námsmenn sem eiga ríka foreldra lifa góðu lífi, en þeir sem eru af alþýðufólki komnir eiga ekki sjö daga sæla. Flestir vinstrisinnaðir námsmenn tilheyra sinni hópnum. Vinstri sinnaðir námsmenn skilja að þeir fá aðeins jafnrétti til náms ef verkalýðurinn styður þeirra baráttu. En þá verða þeir einnig að taka þátt í baráttu verkalýðsins fyrir sósíalísku þjóðfélagi, því að aðeins þar hefur verkafólk full réttindi til menntunar.

Það er því eitt af mikilvægustu baráttumálum verkalýðsins að hann fái að njóta menntunar. Í kapitalísku þjóðfélagi er nú svo háttað að mótsögn er milli líkamlegrar vinnu og andlegrar vinnu. Borgarastéttin einokar andlega vinnu en verkalýðurinn er látinn um þá líkamlegu. Í sósíalismanum er þessi einokun afnumin með afnámi borgarastéttarinnar. Þetta er sögulegt hlutverk verkalýðsins. Vinstri sinnaðir námsmenn sem aðhyllast heimsskoðun marxismans-lenínismans gera sér fulla grein fyrir þessu. Þeirra hlutverk er að virkja lýðræðissinnaða námsmenn til baráttu fyrir jöfnum rétti allra til náms hvað varðar búsetu, stétt og námsefni.

Það eru fyrst og fremst börn lágtekjumanna, þeirra er búa fjarri skólakjörnum sem detta úr námi. Það hefur ekki breyst þó skipt hafi verið um menntamálaráðherra.



# 1. MAÍ

## Alþjóðlegur baráttudagur verkalýðsstéttarinnar



Karl Marx og Friedrich Engels. Fáir menn hafa haft jafn mikil áhrif á sögu seinni tíma. Þeir sköpu sósíalismanum vísindalegan grundvöll og studdu að stofnun fyrstu alþjóðasamtaka verkalýðsins. I. Alþjóðasamtök verkalýðsins voru lögð niður eftir að byltingartilraun franska verkalýðsins hafði verið kæfð í blóði af sameinuðum herjum frönsku borgarastéttarinnar og þeirrar þýsku árið 1871. Örfáum árum síðar leiddu þeir aftur uppbyggingu slíkra alþjóðasamtaka, II. Internationale, sem skipulagði fyrstu alþjóðlegu baráttuaðgerðir verkalýðsins á 1. maí. Það var árið 1891 og óslitið síðan hafa milljónahersveitir verkamanna og -kvenna haldið þennan dag hátíðlegan.

Í Febrúarmánuði árið 1848 kom út bók sem átti eftir að hafa afgerandi áhrif á starf og stefnu verkalýðshreyfingar veraldarinnar. Þessi bók, Kommúnistaávarpið, kom út í upphafi þeirrar byltingaröldu, sem gerbreytti svipmóti Evrópu á árunum 1848-49. Hún varð stefnuskrá hinnar kommúnísku hreyfingar um víða veröld og enn þann dag í dag standa nær allar kenningar hennar óhaggaðar, þrátt fyrir þann tíma sem liðinn er frá útgáfu hennar hið fyrsta sinn. Höfundar þessarar bókar voru Marx og Engels. Þeir skráðu niðurlagsorð hennar svo, en þau hafa hljómað sem herkall til öreigastéttarinnar æ síðan: "Kommúnistar hirða ekki um að leyna skoðunum sínum og ætlunum. Þeir lýsa því yfir afdráttarlaust, að allri þjóðfélagsskipan verði steypt með valdi. Lofum hinum drottnandi stéttum að skjálfa fyrir kommúnistabyltingunni. Þar hafa öreigarnir engu að týna nema hlekkjunum. Þeir eiga heilan heim að vinna.

Öreigar allra landa sameinist."

Kommúnistaflokkur Íslands var stofnaður árið 1930. Hann leiddi baráttu íslensks verkalýðs um skamma hríð, en meðan hans naut við, var staða og skipulag verkalýðsins öflugt. Hann var lagður niður árið 1938. Myndin sýnir kröfugöngu sem hann skipulagði þann 1. maí árið 1933 eða 1934.





Íslensk verkalýðsstétt skipulagði sig skömmum eftir aldamóti. Fyrst í einstök stéttarfélög en síðar í Alþýðusamband Íslands sem stofnað var árið 1916. Um leið var stofnaður fyrsti stjórnmálaflokkur íslensks verkalýðs, Alþýðuflokkurinn, en hann úrkynjaðist og hvarf af braut byltingarstefnunnar.







Barcelona árið 1936 Lýðveldissinnar réðu borginni, en þá geisaði borgarastyrjöld á Spáni. Falangistar Franco sóttu að lýðveldisherjunum með tilstyrk þýsku nasistanna og ítölsku fasistanna. Hin svokölluðu lýðræðisríki Evrópu horfðu aðgerðarlaus á er frelsi spænskrar alþýðu var kæft í blóði. Aðstoð barst aðeins frá Sovétríkjunum. Myndin sýnir 1. maí hátíðahöldin í Barcelona á framhlið hótels Colon hefur verið hengdur rauður borði með myndum af Lenín og Stalín.

Mao Ze-dong. Kínverski bóndasonurinn sem ungur nam marxisma og gerðist síðan leiðtogi fyrir frelsisbaráttu fjölmennustu þjóðar heims. Hann leiddi þjóð sína til sigurs yfir japanska hernaðarfasismanum á árum síðari heimsstyrjaldarinnar, stjórnaði stríði hennar og sigrum yfir her þjóðernissinna, sem naut atfylgis bandarísku heimsvaldasinnanna og leiddi hana til sigursællar uppbyggingar sósíalismans í Kína.

Maó gagnrýndi og afhjúpaði nútímaendurskoðunarstefnuna í Sovétríkjunum og lagði fram þá stjórnlist sem kommúníska hreyfingin fylgir í stéttabaráttu samtímans. Í grein sinni 'Hvaðan kom réttar hugmyndir' segir hann þessi fleygu orð: "Ótal staðreyndir sanna, að réttur málstaður fær nóga hjálp en rangur málstaður harla litla. Veik þjóð getur vissulega sigrað aðra sterka, lítil þjóð getur sigrað stórþjóð. Þjóð lítils lands getur vissulega sigrast á árás af hálfu stórþjóðar, ef hún aðeins þorir að rísa til baráttu, þorir að grípa til vopna og taka örlög lands síns í sínar hendur. Þetta er lögmál sögunnar."

Vladimir I. Lenín og Jósep V. Stalín. Þeir leiddu byltingu verkalýðsins og vinnandi alþýðu í Sovétríkjunum í byrjun aldarinnar. Októberbyltingin hafði geysileg áhrif um víða veröld. Hvarvetna risu upp verkafólk og vinnandi lýður til baráttu fyrir frelsi sínu. Kommúnískir flokkar voru stofnaðir um allan heim undir handleiðslu III. Alþjóðasambandsins sem stofnað var 1919 að tilstuðlan Leníns. Sumir þessara flokka leiddu verkalýðsstétt heimalands síns til sigurs yfir drottnandi stéttum auðs og arðráns. Bæði Lenín og Stalín háðu harða baráttu gegn hvers kyns hentistefnu og endurskoðunarstefnu og svikum forystu II. Alþjóðasambandsins, sem yfirgefið hafði stefnu Marx og Engels eftir dauða þeirra Lenín skilgreindi heimsvaldastefnuna sem sérstakt þróunarstig kapitalismans. Í riti sínu 'Heimsvaldastefnan og klofningur sósíalismans' segir hann þessi orð, sem enn eru í fullu gildi: "Það er staðreynd, að 'borgaralegir verkalýðsflokkar hafa verið myndaðir í öllum þróuðum auðvaldslöndum. Það er og staðreynd, að án kröftugrar baráttu gegn þessum flokkum á öllum vígstöðvum - eða hópum, stefnum osf. það er allt það sama - verður ekki um baráttu gegn heimsvaldastefnunni, um marxisma, eða um sósíalíska verkalýðshreyfingu að ræða."

Kommúnistaflokkur Íslands M-L var stofnaður á páskum 1976. Hann hefur æ síðan beitt sér fyrir málefnum verkalýðsstéttarinnar og verið í fararbroddi fyrir baráttu hennar. Myndin sýnir kröfugöngu 1. maí árið 1976, skömmu eftir að flokkurinn var stofnaður Auk hans tók EIKm-l þátt í aðgerðunum og nokkur fleiri samtök.



# 1. MAÍ

## Alþjóðlegur baráttudagur verkalýðsstéttarinnar



Karl Marx og Friedrich Engels. Fáir menn hafa haft jafn mikil áhrif á sögu seinni tíma. Þeir sköpu sósíalismanum vísindalegan grundvöll og studdu að stofnun fyrstu alþjóðasamtaka verkalýðsins. I. Alþjóðasamtök verkalýðsins voru lögð niður eftir að byltingartilraun franska verkalýðsins hafði verið kæfð í blóði af sameinuðum herjum frönsku borgarastéttarinnar og þeirrar þýsku árið 1871. Örfáum árum síðar leiddu þeir aftur uppbyggingu slíkra alþjóðasamtaka, II. Internationale, sem skipulagði fyrstu alþjóðlegu baráttuaðgerðir verkalýðsins á 1. maí. Það var árið 1891 og óslitið síðan hafa milljónahersveitir verkamanna og -kvenna haldið þennan dag hátíðlegan.

Í Febrúarmánuði árið 1848 kom út bók sem átti eftir að hafa afgerandi áhrif á starf og stefnu verkalýðshreyfingar veraldarinnar. Þessi bók, Kommúnistaávarpið, kom út í upphafi þeirrar byltingaröldu, sem gerbreytti svipmóti Evrópu á árunum 1848-49. Hún varð stefnuskrá hinnar kommúnísku hreyfingar um víða veröld og enn þann dag í dag standa nær allar kenningar hennar óhaggaðar, þrátt fyrir þann tíma sem liðinn er frá útgáfu hennar hið fyrsta sinn. Höfundar þessarar bókar voru Marx og Engels. Þeir skráðu niðurlagsorð hennar svo, en þau hafa hljómað sem herkall til öreigastéttarinnar æ síðan: "Kommúnistar hirða ekki um að leyna skoðunum sínum og ætlunum. Þeir lýsa því yfir afdráttarlaust, að allri þjóðfélagsskipan verði steypt með valdi. Lofum hinum drottnandi stéttum að skjálfa fyrir kommúnistabyltingunni. Þar hafa öreigarnir engu að týna nema hlekkjunum. Þeir eiga heilan heim að vinna.
Öreigar allra landa sameinist."

Kommúnistaflokkur Íslands var stofnaður árið 1930. Hann leiddi baráttu íslensks verkalýðs um skamma hríð, en meðan hans naut við, var staða og skipulag verkalýðsins öflugt. Hann var lagður niður árið 1938. Myndin sýnir kröfugöngu sem hann skipulagði þann 1. maí árið 1933 eða 1934.





Íslensk verkalýðsstétt skipulagði sig skömmum eftir aldamóti. Fyrst í einstök stéttarfélög en síðar í Alþýðusamband Íslands sem stofnað var árið 1916. Um leið var stofnaður fyrsti stjórnmálaflokkur íslensks verkalýðs, Alþýðuflokkurinn, en hann úrkynjaðist og hvarf af braut byltingarstefnunnar.







Vladimir I. Lenín og Jósep V. Stalín. Þeir leiddu byltingu verkalýðsins og vinnandi alþýðu í Sovétríkjunum í byrjun aldarinnar. Októberbyltingin hafði geysileg áhrif um víða veröld. Hvarvetna risu upp verkafólk og vinnandi lýður til baráttu fyrir frelsi sínu. Kommúnískir flokkar voru stofnaðir um allan heim undir handleiðslu III. Alþjóðasambandsins sem stofnað var 1919 að tilstuðlan Leníns. Sumir þessara flokka leiddu verkalýðsstétt heimalands síns til sigurs yfir drottnandi stéttum auðs og arðráns. Bæði Lenín og Stalín háðu harða baráttu gegn hvers kyns hentistefnu og endurskoðunarstefnu og svikum forystu II. Alþjóðasambandsins, sem yfirgefið hafði stefnu Marx og Engels eftir dauða þeirra Lenín skilgreindi heimsvaldastefnuna sem sérstakt þróunarstig kapitalismans. Í riti sínu 'Heimsvaldastefnan og klofningur sósíalismans' segir hann þessi orð, sem enn eru í fullu gildi: "Það er staðreynd, að 'borgaralegir verkalýðsflokkar hafa verið myndaðir í öllum þróuðum auðvaldslöndum. Það er og staðreynd, að án kröftugrar baráttu gegn þessum flokkum á öllum vígstöðvum - eða hópum, stefnum osf. það er allt það sama - verður ekki um baráttu gegn heimsvaldastefnunni, um marxisma, eða um sósíalíska verkalýðshreyfingu að ræða."




Barcelona árið 1936 Lýðveldissinnar réðu borginni, en þá geisaði borgarastyrjöld á Spáni. Falangistar Franco sóttu að lýðveldisherjunum með tilstyrk þýsku nasistanna og ítölsku fasistanna. Hin svokölluðu lýðræðisríki Evrópu horfðu aðgerðarlaus á er frelsi spænskrar alþýðu var kæft í blóði. Aðstoð barst aðeins frá Sovétríkjunum. Myndin sýnir 1. maí hátíðahöldin í Barcelona á framhlið hótels Colon hefur verið hengdur rauður borði með myndum af Lenín og Stalín.

Mao Ze-dong. Kínverski bóndasonurinn sem ungur nam marxisma og gerðist síðan leiðtogi fyrir frelsisbaráttu fjölmennustu þjóðar heims. Hann leiddi þjóð sína til sigurs yfir japanska hernaðarfasismanum á árum síðari heimsstyrjaldarinnar, stjórnaði stríði hennar og sigrum yfir her þjóðernissinna, sem naut atfylgis bandarísku heimsvaldasinnanna og leiddi hana til sigursællar uppbyggingar sósíalismans í Kína.

Maó gagnrýndi og afhjúpaði nútímaendurskoðunarstefnuna í Sovétríkjunum og lagði fram þá stjórnlist sem kommúníska hreyfingin fylgir í stéttabaráttu samtímans. Í grein sinni 'Hvaðan kom réttar hugmyndir' segir hann þessi fleygu orð: "Ótal staðreyndir sanna, að réttur málstaður fær nóga hjálp en rangur málstaður harla litla. Veik þjóð getur vissulega sigrað aðra sterka, lítil þjóð getur sigrað stórþjóð. Þjóð lítils lands getur vissulega sigrast á árás af hálfu stórþjóðar, ef hún aðeins þorir að rísa til baráttu, þorir að grípa til vopna og taka örlög lands síns í sínar hendur. Þetta er lögmál sögunnar."

Kommúnistaflokkur Íslands M-L var stofnaður á páskum 1976. Hann hefur æ síðan beitt sér fyrir málefnum verkalýðsstéttarinnar og verið í fararbroddi fyrir baráttu hennar. Myndin sýnir kröfugöngu 1. maí árið 1976, skömmu eftir að flokkurinn var stofnaður Auk hans tók EIKm-l þátt í aðgerðunum og nokkur fleiri samtök.

# *Kristján Guðlaugsson:*

# Ræða flutt á liðsmannafundi Sameiningar 1.maí

Góðir félagar!

1. maí, alþjóðlegur hátíðis- og baráttudagur verkalýðsstéttarinnar er framundan. Og einmitt þess vegna erum við hér samankomin, til þess að undirbúa kröfugöngu og fundarhöld í anda stéttabaráttunnar.

Hvarvetna á byggðu bóli eru milljónir manna að gera slíkt hið sama, verkalýður og vinnandi alþýða heimsins fylkir sér undir fánann rauða í síauknum mæli.

Við höfum valið að kalla aðgerðir okkar sameiningu gegn kjaraskerðingum, og þessi nafngift er sannarlega ekki að ástæðulausu. Undanfarið ár hafa dunið yfir heiftarlegar kjaraskerðingar og þau loforð sem alþýðufólki þessa lands voru heitin við valdatöku núverandi ríkisstjórnar, hafa reynst auvirðileg kosningaloforð.



Frá göngu Baráttueiningar 1976. Þá myndaðist samfylking nokkurra af sömu aðilum og nú mynda Sameiningu 1. maí gegn kjaraskerðingu.

Alþýðubandalagið sem kallar sig sósíalískan flokk, lýsti því yfir fyrir kosningar að nú yrði að fórna baráttunni gegn NATO og hernum, vegna þess að efnahagsvandamálin væru brýnasta viðfangsefnið og úrbætur á því sviði svo aðkallandi að gera þyrfti hlé á andstöðunni gegn bandarísku heimsvaldastefnunni. En hverjar hafa úrlausnir ríkisstjórnarinnar verið? Hefur hún framkvæmt eitthvað það, að það réttlæti eftirgjöf í hermálinu? Hefur hún fengið einhverju áorkað, að það réttlæti stuðning við hana á einhvern hátt? Svarið er nei. Þvert á móti hefur hún haldið áfram þeirri atlögu sem ríkisstjórn Geirs Hallgrímssonar gerði á kjör almennings í hinum illræmdu febrúarlögum í fyrra.

En hvað sýnir þetta okkur? Það sýnir okkur að Alþýðubandalagið þjónar ekki hagsmunum fjöldans, hversu hátíðlega sem yfirlýsingar þess um sósíalisma og verkalýðsbaráttu kunna að hljóma. Að baki stjórnarþátttöku Alþýðubandalagsins býr ekki óskin um betri kjör handa almenningi, svo mikið er ljóst af framferði þess í stjórninni. Að baki stjórnarþátttöku Alþýðubandalagsins býr allt önnur og lágkúrulegri ósk - óskin um eigin veg og völd. Ósk um hefð og auðlegð á kostnað hins vinnandi fjölda.

Atburðir undanfarins mánaðar sýna svo ekki verður um villst að þessu er svona varið. Ráðherrar Alþýðubandalagsins hótuðu að segja af sér ef af kjaraskerðingu yrði. En voru það ekki sömu menn sem samþykktu kjaraskerðinguna og búast nú til að framfylgja henni?

Og það sem meira er. Verkalýðsforingjar Alþýðubandalagsins hafa hver um annan þveran hreinlega krafist þess að kjörin verði skert, allt til að þjóna stjórnarsetuhagsmunum flokksins. Stjórnir Alþýðusambands Austurlands, Verkamannasambandsins og nú síðast BSRB, hafa allar kropið auðsveipar við fótskör ríkisstjórnarinnar og þakkað umbeðnar kjaraskerðingar. Verkalýðsforingjar af sömu gerð og Guðmundur J. Guðmundsson, Haraldur Steinþórsson og Kristján Thorlacius eru verri en engir foringjar. Þetta eru menn sem eru þess albúnir að selja lífskjör almennings undir öxina. Þetta eru menn sem hafa sýnt þess órækt merki, að hagsmunamál fjöldans eru þeim lítils virði. Þetta eru menn sem verkalýðshreyfingin þarf að hreinsa úr röðum sínum.

Ganga fulltrúaráðs verkalýðsfélaganna á 1. maí er undir stjórn þessara manna, hún er beinlínis stuðningur við kjaraskerðingapólitík ríkisstjórnarinnar. En þeir sem taka þátt í henni, hinn almenni þátttakandi gerir það ekki vegna stuðnings við kjaraskerðingarnar, heldur af tryggð við stéttarfélag sitt. Hann ber enga sök á framferði forystunnar og það er mikilvægt að við leggjum áherslu á það.

Foringjar Alþýðusambandsins munu eflaust saka okkur um klofningsstarf eins og þeirra er vandi. En hvert er orðið þeirra eigið sameiningarstarf? Felst það kannske í máttlausum stéttarfélögum og auðsveipni við atvinnurekendur? Til hvers er slík sameining og hver þorir að andmæla rétti okkar til að sundra henni?

Við stöndum fyrir annars konar sameiningu - sameiningu gegn auðvaldinu og handbendum þess innan verkalýðshreyfingarinnar. Ef að slík sameining er þyrnir í augum forystunnar, hvers ber það þá vitni? Það ber þess vitni að þeir eru raunverulega andstæðir baráttu gegn kjaraskerðingum, að þeir hafa valið að starfa með auðvaldinu að framkvæmd kjaraskerðinga.

Ég ætla ekki að fara mörgum orðum um kröfugöngu fjórða alþjóðasambandsins sem kallar sig Rauða Verkalýðseiningu. Lína hennar er kyrfilega hnýtt í taglið á fulltrúaráðsgöngunni eins og stuðningur hennar við nýjustu kjaraskerðingar ríkisstjórnarinnar sýna og sanna. Spurningin er aðeins sú, hve langan taum Alþýðubandalagsforystan gefur Fylkingunni til þess að hlaupa út undan sér í ár.

En Sameining okkar nær ekki aðeins til kjaraskerðinganna, hún spannar einnig yfir önnur svið. Orsökin er ósköp einföld. Andstæðingurinn ræðst að okkur á öðrum sviðum. Ísland er aðili að hernaðarbandalaginu NATO og hér er bandarískur her. Á undanförnum árum hefur andstaðan við herstöðina og NATO farið vaxandi og innan Samtaka Herstöðvaandstæðinga hafa menn menn sameinast þvert á öll flokksbönd, til þess að berjast gegn yfirgangi og drottnunarstefnu Bandaríkjanna á Norður Atlanshafinu.

En þessi sameining verður líka að taka til ásælni og yfirgangs annara heimsvaldaríkja, sérstaklega Sovétríkjanna. Sovétríkin eru ekki sósíalískt land að neinu leyti. Þvert á móti hafa þau umturnast og orðið helsti andstæðingur lítilla þjóða, alþýðlegrar frelsisbaráttu og sósíalískrar baráttu um alla veröld. Þessi fullyrðing er ekki úr lausu lofti gripin. Allir sem hafa augu og vilja sjá með þeim geta ekki annað en viðurkennt að þessu er svona varið. Hvarvetna þar sem styrjaldir geysa, hvarvetna þar sem valdarán eru framin eða kemur til vopnaðra átaka, má greina afskipti Sovétríkjanna að tjaldabaki. Sums staðar koma þau við sögu sem efnahags- og hernaðarráðgjafar, sums staðar koma þau fram sem aðili að sjálfum átökunum. Hefur ekki saga þessa áratugs fært okkur heim sannin um það, að Sovétríkin eru að taka við alheimslögregluhlutverki því, sem Bandaríki Norður Ameríku gegndu upp úr síðari heimsstyrjöld? Hefur ekki saga Latnesku Ameríku, Asíu og Afríku sýnt okkur ljóslega, að hvarvetna þar sem bandarísku heimsvaldasinnarnir hopa undan fyrir frelsisbaráttu alþýðunnar, hefur nýr óvinur komið í þeirra stað. Og að þessu sinni er hann ekki sjálfskipaður fulltrúi "vestræns lýðræðis og frelsis" heldur "þjóðfrelsis og sósíalisma". Þessi nýi óvinur er Sovétríkin - um það þarf ekki að fletta neinum blöðum.

Gervöll saga síðustu áratuga sannar óyggjandi, að risaveldin tvö eiga í harðvítugri togstreitu um völdin yfir hráefnalindum, áhrifasvæðum og mörkuðum. Barátta þeirra um heimsyfirráð er afgerandi þáttur í þróun heimsmálanna í dag og það væri heimskulegt að taka ekki tillit til þess í mati okkar á gangi mála í dag.

Sameining gegn risaveldunum og heimsvaldastefnunni er þess vegna nauðsynlegur þáttur í aðgerðum okkar á 1. maí.

Ganga fulltrúaráðsins mun ekki taka upp fána þjóðfrelsis og sjálfstæðis. Foringjar verkalýðshreyfingarinnar munu ekki hvetja til baráttu gegn risaveldunum. Voru það ekki þeir sem sögðu að efnahagsvandamálin væru svo brýn, að andheimsvaldabaráttan yrði að bíða? Gott og vel, tíminn hefur liðið. En ekkert hefur skeð. Úrlausnir þeirra í efnahagsmálum felast bara í kjaraskerðingum. Hvernig skyldu þá úrlausnir þeirra á andheimsvaldabaráttunni líta út? Það þarf ekki að geta sér til um það ef þessir menn biðja um kjaraskerðingar, hvers vegna skyldu þeir þá ekki biðja um "vernd" vina sinna í austri eða vestri?

Það eina sem sameinar þessa menn eru eiginhagsmunir og hvorugu risaveldanna ætti að vera skotaskuld úr því að hressa upp á þá. Þau hafa hingað til ekki verið sínk á aurana þegar bjóða þarf í "vini" á hinum óopinbera skækjumarkaði stjórnmálanna.

Og við vitum einnig hvað Rauð verkalýðseining hyggur í þessu tilliti. Bak við hræsni Fylkingarinnar um andheimsvaldabaráttu býr ekkert annað en stuðningur við heimsvaldasinnaða hagsmuni Sovétríkjanna og andstaða við sósíalismann í Kína. Er hægt að búast við öðru af sönnum rússadindlum?

Sameining er stórt orð félagar. Og til þess að standa undir því, er nauðsynlegt að við leggjumst öll á eitt um það, að gera aðgerðir Sameiningar sem veglegastar á 1. maí. Við skulum heita því í sameiningu, að þegar við förum út af þessum fundi, förum við héðan sem ötulir áróðursmenn fyrir málstað sameiningar gegn kjaraskerðingu og heimsvaldastefnu. Við skulum kappkosta að vinir, ættingjar, kunningjar, skólafélagar og vinnufélagar ma mæti galvaskir til leiks á 1. maí og stuðli þannig að víðtækum aðgerðum Sameiningar 1. maí 1979.



# Hvað er að gerast í Afganistan

Hin Sovétsinnaða ríkisstjórn Afganistan hefur staðið fyrir fjöldahandtökum undanfarið. Markimiðið er að brjóta niður alla andstöðu gegn valdhöfunum. Yfir 1000 manns voru handteknir síðustu vikur. Engar upplýsingar eru veittar aðstandendum um hina handteknu.
Jafnframt þessu eykst skæruhernaður í landinu. Skæruliðarnir hafa nú þegar á valdi sínu borgir í landinu.

Meðal hinna handteknu eru opinberir starfsmenn, kennarar og fleiri, smáatvinnurekendur, leigubílstjórar og fólk sem starfar í ýmsum þjónustugreinum.
Haft er eftir vestrænum sendimönnum í Kabul að handtökurnar hafi haft áhrif á stjórnkerfi landsins. Flestir embættismenn ríkisins séu ungir og reynslulausir menn á þrítugsaldri, nýkomnir úr skólum.

Órói í höfuðborginni.

Mikil ókyrrð er sögð í höfuðborginni eftir handtökurnar. Upphaflega beindust þær aðallega að sk. "gagnbyltingaröflum" en hafa síðar breiðst út og virðast beinast gegn öllum beim sem andæva stjórninni á einhvern hátt.
Aðstandendur fá ekkert að vita um fangana. Kona ein sem kom á lögreglustöð í borginni og spurði um handtekinn mann sinn fékk þau svör að henni væri hollast að fara heim og finna sér annan mann.

Ferðabann.

Samfara þessu hefur ríkisstjórnin bannað öll ferðalög innan landsins. Bannið nær til útlendinga og afgana. Það er greinilega tilraun til að fela ástandið í landinu fyrir íbúunum og blaðamönnum.
Ríkisstjórnin reynir að koma á ritskoðun og einoka fjölmiðla í landinu. Þannig er hin opinbera skýring á óróanum í landinu sú að íranir og pakistanar hafi sent undirróðursmenn til landsins.
Sovéskir fjölmiðlar bergmála þessar ásakanir og hafa ráðist heiftarlega í stjórnir írans og Pakistan fyrir afskipti af innanríkismálum Afganistans.

Sovésk áhrif í landinu.

Sovésk áhrif eru mikil í landinu eins og best sést á því sem áður var sagt um ásakanir í garð írana og pakistana.
Sovésku heimsvaldasinnarnir hafa hins vegar ekki látið sitja við orðin tóm. Þeir hafa sent um það bil 3000 manns til lands ins. Þessir menn hafa þau verkefni að aðstoða við stjórnun landsins og baráttuna gegn skæruliðunum.
Tilvera sovéskra ráðgjafa hefur sannast á því að skæruliðar hafa fellt nýlega 16 sovétmenn í bardögum.
Eftir mikla sókn skæruliða nýlega var sovéski hershöfðinginn Aleksej Jepisjev sendur til Afganistan til að taka að sér að stjórna baráttunni gegn skæruliðum.

Sendiherrann skaut stúdentana.

Eftirfarandi saga er dæmigerð fyrir þann hernaðaranda sem einkennir stjórnina í Kabul.
Afganskir stúdentar í París stóðu nýlega fyrir mótmælaaðgerðum fyrir utan sendiráð Afganistan þar í borg. Meðal vígorða sem borin var Sovétríkin burt úr Afganistan.
Ekki höfðu aðgerðirnar staðið lengi þegar til skotbardaga kom. Var þar að verki sendiherrann sem dregið hafði upp skammbyssu og hóf skothríð á mótmælendurna. Aðrir sendiráðsstarfsmenn gripu einnig til skotvopna.

Skæruliðaherinn.

Að sögn talsmanna skæruliðanna telur her þeirra um 100 þúsund manns. Þeir hafa líka upplýst að fjöldi hermanna gerist liðhlaupar úr her stjórnarinnar og gangi til liðs við skæruliðana.



Afganistan er enn eitt landið sem lendir undir járnhæl sovésku heimsvaldasinnanna til ómældra hörmunga fyrir alþýðuna þar. Útgöngubann hefur t.d. ríkt í Kabul í eitt ár.

Þetta hefur einnig komið fram í viðtali blaðamanna Herald Tribune við afganskan hershöfðingja sem yfirgaf stjórnarherinn og stýrir nú hluta skæruliðahers ins. Hann sagði í viðtali að stjórnarherinn hefði yfir flugvélum að ráða en gæti hins vegar ekki treyst flugmönnunum.
Talið er að um það bil þriðji hluti stjórnarhersins hafi samúð með baráttu skæruliðanna. Stjórninni er því takmarkaður stuðningur í hernum.

Skæruhernaðurinn í ríkum mæli fer nú fram í 10 af 28 héruðum landins. Skæruliðar ráða einnig víðáttumiklum landssvæðum. Eina svar ríkisstjórnarinnar er að gera daglega sprengjuárásir á þau héruð.
Samkvæmt blaðafregnum stóð mikil sókn skæruliða fyrir dyrí tilefni af eins árs afmælis valdaráns stjórnarinnar þann 27. apríl. Stb mun greina frá því þegar upplýsingar um það berast.

# Handtökur á Ítalíu

Ítalska lögreglan hefur hafið mikla handtökuherferð í Róm, Mílanó og nokkrum öðrum stórborgum Ítalíu. Handtökurnar eru sagðar í tengslum við morðið á Aldó Móro í fyrra.
Líkur benda þó til þess að um mun umfangsmeiri handtökur sé að ræða og að ýmsir vinstrisinnar sem ekki hafa átt þátt í hryðjuverkum séu látnir fljóta með.
Þetta er þá ekki í fyrsta sinn sem ítalska lögreglan reynir að ofsækja vinstrisinnuð samtök undir yfirskini baráttu gegn hryðjuverkum.

# Mótmæli gegn kjarnorkuveri í Barsebäck

Í Danmörku hafa staðið yfir mótmæli gegn starfrækslu kjarnorkuversins í Barsebäck á Skáni. Kjarnorkuverið er í aðeins 20 km fjarlægð frá Kaupmannahöfn.
Þúsundir dana hafa tekið þátt í mótmælaaðgerðunum.
Þetta hefur leitt til þess að svíar hafa hugað nánar að þessu kjarnorkuveri.
Að sögn NTB væri aðeins unnt að veta sex manns læknisaðstoð ef til geislunar kæmi frá kjarnorkuverinu. Haft er eftir læknum í Lundi að ekkert hafi verið gert til að útbúa sjúkrahús þarna á þann veg að þau geti aðstoðað fólk vegna geislunar. Hvorki hvað varðar sjúkrarúm né lyf.

# Stállausir dagar í Frakklandi

18. apríl síðastliðinn var ákætlaður stállaus dagir í Frakklandi. Fyrirhugað var allsherj arverkfall í stáliðnaðinum. Ástæða ólgunnar í franska stáliðnaðinum er sem kunnugt er endurskipulagning hans. Tugir þúsunda verkamanna munu við þetta missa vinnuna og bætast við atvinnuleysingjana í landinu
Ríkisstjórnin hefur boðið þeim sem sagt verður upp að komast á eftirlaun fyrr en ella. Hún hefur hins vegar ekki tjáð sig um það hvað þeir eigi að gera á meðan.
Allsherjarverkfall hefur lengi staðið fyrir dyrum. Dreifð verkföll fram að þessu hafa lítil áhrif haft.
En þegar á hólminn var komið bilaði stjórn stéttarfélaganna. Í stað þess að hvetja til allsherjarverkfalls var gefin út tilskipun um að félög verkamanna á hverjum stað réðu í hvaða formi aðgerðirnar yrðu. Forysta verkamanna á sumum stöð um lagði því verkfallsáform á hilluna en hóf þess í stað viðræður við atvinnurekendur.
Verkföll urðu þó í ýmsum stáliðjuverum og lögðu til dæmis um 13.000 manns niður vinnu í Fos og Dunkerque.

# Kosningarnar í Rodesíu

Úrslit kosninganna í Ródesíu liggja fyrir en jafnframt hefur komið í ljós að þær voru helber blekkingarleikur hvítu valdhafanna. Þeir hafa ekki látið nein völd af hendi.
Það segir líka sína sögu að engin ríkisstjórn í heiminum, utan stjórn S-Afríku, hefur treyst sér til að viðurkenna stjórn Ian Smiths þrátt fyrir kosningarnar.

Hvíti minnihlutinn hefur tryggt völd sín þrátt fyrir kosningar.

Kosningar þessar þjóna þeim tilgangi einum að vera lýðræðishula á stjórn og völd aðskilnaðarsinnanna.
Vaxandi alþjóðleg einangrun stjórnar Ian Smiths hefur neytt hana til að fegra aðeins á sér framhliðina.

Hvíti minnihlutinn hefur hins vegar ekki afsalað sér völdum í einu eða neinu. Ríkisvaldið, herinn, lögreglan og dómstólarnir eru eftir sem áður undir stjórn hvíta minnihlutans.
Minnihlutinn hefur einnig séð til þess að svarti þingmeirihlutinn getur í engu breytt lögunum um aðskilnað kynþátta. Hvíta minnihlutanum eru tryggð 28 þingsæti af þeim 100 sem kosið er um. Svertingjar fá 72 sæti en til að breyta lögum þarf 78 atkvæði.

Þjóðernisfylkingin og skæruliðahernaðurinn.

Þjóðernisfylkingin hefur sagt að kosningarnar séu blekking sem skerði í engu völd og alræði hvíta minnihlutans. Þetta hefur komið á daginn.
Smithstjórnin hefur meðan augu manna beindust að kosningunum einnig notað tækifærið og stóreflt herinn og baráttuna gegn skæruliðunum.

Á sama tíma hefur Þjóðernisfylkingin eflt sína sókn og meðal annars fært höfuðstöðvar sín ar inn í landið. Þar nýtur hún stuðnings sveitaalþýðunnar í árásum á aðalvaldamiðstöðvar hvíta minnihlutans í stærstu borgunum.
Þá atburði sem nú gerast í Ródesíu má því með réttu kalla upphafið að endalokum alræðis hvíta minnihlutans.

Þegar hefur komið á daginn að svikum var beitt í kosningunum. Í sumum kjördæmum var kosningaþátttakan vel yfir 100%. Séra Sithole, annar helsti frambjóðandi svartra, hefur sagt frá því að fjöldi manna hafi kosið oftar en einu sinni. Þrátt fyrir þetta varð kjörsókn aðeins rúmlega 60%.
Sithole hefur einnig sagt frá því að svertingjar hafi blátt áfram verið neyddir til að taka þátt í kosningunum. Stjórn Ian Smith sendi fjölda embættismanna og hermanna út á landsbyggðina til að "sannfæra" svertingjana um að þeir ættu að kjósa.

# Polisario vinnur á

Samkvæmt óstaðfestum fréttum frá Alsír, munu stjórn Máretaníu hafa ákveðið að láta af hendi yfirráð sín yfir Vestur Sahara, til frelsishreyfingarinnar F Polisario. Vestur Sahara var skipt á milli Máretaníu og Marocco fyrir tveimur árum, þegar spánverjar afsöluðu sér stjórn landsins, en hún hafði áður verið nýlenda þeirra um aldaraðir.
F Polisario hefur háð árangursríka skæruliðabaráttu gegn ríkjunum tveimur og hefur í raun yfirráð yfir suðurhéruðum landsins sem liggja að Máretaníu. Þótt frétt þessi hafi enn ekki verið staðfest í Máretaníu, má búast við að það verði gert innan tíðar, því Máretanía hefur allt frá upphafi átt í miklum erfiðleikum með að halda sínum hluta af Vestur Sahara, vegna skæruliðabaráttunnar.
Hassan II. konungur Marocco hefur hins vegar ekki í huga að sleppa tangarhaldi sínu á landinu fyrr en í fulla hnefana, enda hafa hersveitir frá Marocco borið hitann og þungan af styrjaldarrekstrinum gegn F Polisario. Fáist frétt in staðfest, ber það vott um mikinn sigur skæruliðanna og alþýðunnar í Vestur Sahara sem stendur einhuga á bak við hreyfingu þeirra, F Polisario.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

**Stéttabaráttan**

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.

17. tbl. 8. árg. 1.5 1979



STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.


# Farmannadeilan: Verkbann og verkfallsbann í uppsiglingu ?

Verkfall yfirmanna á farskipum skall á í miðri síðustu viku. Hvorki gekk né rak á sáttafundi deiluaðila, Farmanna og fiskimannasambandsins og Vinnuveitendasambandsins, sem haldinn var fyrir helgina. Enda ber mikið á milli.

Útgerðarmenn neita því eindregið að taka á nokkurn kostnaðarauka. Í stað þess reyna þeir að etja saman yfirmönnunum á farskipunum annars vegar og undirmönnum og verkafólki í landi hins vegar.

Það gera þeir með því að tala um yfirmennina sem hátekjumenn og friðarspilla. Þeir hóta verkbönnum, sem hafa myndu í för með sér stórskerðingu á kjörum annars launafólks, og kenna það verkfallsmönnum.

## Hverjir eru hæst launaðir ?

VSÍ hefur, og skyldi engan undra, fengið ríkisstjórnina í lið með sér.

Framámenn ríkisstjórnarinnar hafa hótað að grípa inn í deilurnar og þá með bannfæringu á verkfallið. Sjálfur forsætisráðherrann hefur látið hafa slíkt eftir sér. Rök Steingríms Hermannssonar landbúnaðarráðherra t.d. eru þau "að það næði ekki nokkurri átt að þeir sem hæst hefðu launin ryfu þá samstöðu sem náðst hefði um launamál og ríkisstjórnin gæti ekki setið aðgerðarlaus hjá þegar það gerðist". Já, ráðherrann talar um þá hæst launuðu. Miðað við lægst launaða fólkið á landinu hafa yfirmenn á farskipum jú nokkuð hátt kaup. En sé miðað við stórútgerðarmennina, sem vel að merkja eru m. a. í toppaðstöðu til að svíkja undan skatti, eru allir farmenn láglaunamenn.

Farmenn vinna langan vinnudag, vinnustaður þeirra er oftast víðs fjarri heimilunum og þeir eins og annað vinnandi fólk borga hátt hlutfall launa sinna í skatta.

VSÍ setti fram þá kröfu s.l. föstudag til undirmanna á farskipum að samningar þeirra yrðu nú endurnýjaðir án hækkunar á heildarlaunakostnaði en launahækkun náist með breytingum á reglum um áhafnarstærð og fl.. Í þessari kröfugerð atvinnurekenda er beinlínis sagt að fækka eigi starfsmönnum á farskipunum og að laun þeirra sem misstu vinnuna gengju upp í launahækkun hinna sem eftir yrðu. Krafan er hótun um uppsagnir og aukið vinnuálag á þá sem eftir yrðu.

## Fyrirætlanir VSÍ og ríkisstjórnarinnar eru verkfallsbann og verkbann.

Framkvæmdastjórn VSÍ ræddi verkbannsaðgerðir s.l. fimmtudag en frestaði ákvarðanatöku fram yfir helgi.

Ríkisstjórnin sem þekkt er orðin fyrir hatrammlega baráttu sína fyrir launalækkunum er söm við sig í þessu máli. Hún leggur nú á ráðin um hvernig takast megi að knésetja farmenn. Því má vænta enn einnar lagasetningar er skerða mun

framhald á síðu 2



Frá einum af fjöldamorgum fundum samninganefndar Farmanna og fiskimannasambandsins.

# Hátekjumenn

Hugtakið hátekjumenn hefur verið mikið til umræðu, einkum eftir samningana við flugmenn. Enn á ný virðist eiga að dusta rykið af þessu hugtaki og nú til að nota það gegn kröfum yfirmanna á farskipum. Í vetur var þetta notað gegn þeim opinberu starfsmönnum sem fengu þaklyftingu. Þetta hugtak hefur einnig verið notað sem röksemd gegn kjarakröfum BSRB og iðnaðarmanna.

Tilgangurinn með þessu er einfaldlega sá að sverta kjararéttindabaráttu launþega yfirleitt. Áróðursmaskínurnar sem hella þessu yfir okkur ákveða vitaskuld sjálfar hverju sinni hvað séu hátekjur og hvað ekki.

Aðstandendur þessa áróðurs reyna líka með þessu að kljúfa samstöðu launþega. Að láta þá deila innbyrðis í stað þess að standa saman. Það svartasta er að þessi áróður á sér dygga talsmenn í forystuliðistærstu verkalýðsfélaganna.

Það verður ekki borið á móti því að flugmenn hafa há laun í samanburði við þorra launþega. Þessi munur er heldur ekki réttlætanlegur.

En það eru þó ekki flugmenn eða sjómenn sem hafa hæstar tekjur. Athygli vakti að flugmenn skoruðu á forstjóra Flugleiða að upplýsa um launakjör þeirra. Því var ekki sinnt.

Það er staðreynd sem allir vita að atvinnurekendur hafa hæstar tekjur. Þeir skammta sjálfir kaup og ákveða líka hvað þeir greiða í skatta.

Það eru þeir sem eru hinir raunverulegu hátekjumenn.



# Lífvænleg laun fyrir 8 stunda vinnudag

Talsvert hefur borið á því að krafan um lífvænleg laun fyrir dagvinnu hefur hlotið aukinn hljómgrunn undanfarið.

Að einhverju leyti má rekja það til yfirvinnubannsins fyrir tveimur árum. Þá átti verkafólk þess kost að sjá og finna það að vinna aðeins dagvinnu í stað þess að þræla gegndarlausa yfirvinnu myrkranna á milli.

Það kemur ekki á óvart að þessi krafa hljóti hljómgrunn því að sú krafa sem miðar að því að aflétta vinnuþrældómnum af öllu vinnandi fólki hlýtur að vera vel til þess fallin að sameina allt vinnandi fólk.

Stytting vinnudagsins er ekki síður mikil vægt pólitískt atriði.

Hin óhóflega yfirvinna kemur í veg fyrir að verkafólk taki virkan þátt í starfi og stefnumótun verkalýðshreyfingarinnar. Forysta verkalýðsfélaganna hefur notað sér þetta út í ystu æsar og komið upp lýðræðislausu fámennisvaldi á verkalýðsfélögin.

En það er tómt mál að tala um styttingu vinnudagsins ef ekki kemur til hlutfallsleg hækkun grunnlauna. ASÍ forystunni tókst á sínum tíma að blekkja verkalýðinn. Hún tjáði verkafólki að búið væri að ná takmarkinu um 40 stunda vinnuviku, En það reyndist aðeins vera á pappírnum.

Enn á verkalýðshreyfingin langt í land með að ná fram þessari kröfu og víst er um það að núverandi forysta verkalýðsfélaganna mun ekki verða til þess að hún náist fram. Forystan hefur ekki raunverulegan vilja til þess. Framgangur þessarar kröfu mundi meðal annars leiða til þess að fámennisstjórn verkalýðsfélaganna yrði skammlíf. Þess vegna hefur hún engan áhuga á málinu. Hún hefur áhuga á að verkafólk vinni sem lengstan tíma, enda er það í samræmi við hag umbjóðenda forystunnar, auðherranna, sem græða á lengri vinnudegi.

Endurbótastefnan miðar einmitt að því að lappa upp á arðránskerfið og sætta verkafólk við það.

En sem betur fer er það söguleg staðreynd að þeim aftur- og íhaldsmönnum sem standa í vegi fyrir framþróun af völdum breyttra framleiðsluhátta er ávallt sópað á síður sögubókanna þar sem þeir fá að gulna.

